# Æfe Eggerts Olafs Sonar,

## Vice-Løgmanns

Sunnann og Austann

a

Islande.



Hrappsey, 1784.

Prentud i þvi konúngl. privilegerada Bók-þryckerie, af

Gudmunde Jons Syne.

Psalm. CIII. xv. xvi.

Mannsins Dagar eru sem Gras, hann blómgast sem Vallar Blómstr. Kome Vindr á þad, várer þad ecke lengr.





Anno 1726. þann 1. Dag *Decembr.* Mánadar, er *EGGERT OLAFSSON* fæddr i *Svefneyum* á *Breidafyrde*, og en nærsta Dege endrfæddr i H. Skírn, fyrer Embætte Móðrbróðr sins *Sira* Sigurdar Sigurdarsonar i *Flateyar* Kyrkiu. F yr

A 2 elldrar

elldrar *EGGERTS* voru OLAFUR Bónde GUNNLAUGSSON og RAGNHILDUR SIGURDARDOTTER. Sídann óx Hann upp i Forelldra Húsum til þess Hann var 10 Vetra, þá settu þaug þennann sinn frumgetna Son til Bóknáms, og var Hann á Vetrum i *Flatey*, hiá áðurnefndum *Sira* Sigurde, ad læra fyrstu Reglr, latinskrar Túngu.

Þegar *EGGERT* var 12 Ára, kom Hann á Fóstr til Gudmundar Sigurdarsonar Sýsslumanns i *Snæfells* Sýsslu, Módrbródr sins, er sat á *Jngialldshole*. Gudmundur helldt fram Bóknáme Hanns, og á Vetrum feck Hann til Læringar i Hendr *Sira* Thorhalla Magnussyne Sóknar-Preste á *Borg*, hrósade *EGGERT* þvi opt, hvad gód og gegneleg hefde vered Uppfræding þess lærda og gudhrædda Mañs *Sira* Thorhalla. Hiá honum var *EGGERT* 3 Vetr, eñ á Sumrum þar i mille hafde Hañ miked Adhalld Lærdóms og annarar Mentanar, hiá Fóstra sinum Gudmunde Sýsslumañe, er var einhvor lærdastr Madr á þeim Tíma i sinne Stiett, og sidavandr miøg.

Þá

Þá var *EGGERT* 15 Vetra, er Hañ var um Hausted sendr i *Skálholts* Skóla, og heldt Hann þar vid 5 Vetr, under Uppfræding *Sira* Gudlaugs Thorgeyrssonar, er sídann vard Profastr i *Kialarness*-Þínge, og Skólameistarans *Herra* Gisla Magnussonar, sem vard Biskup á *Hólum*. Þvi lengr sem *EGGERT* feckst vid Bókmenter, þvi betr sýndu sig Lærdóms Gáfr Hanns: Þar at auke verkade þad hiá Honum, bæde Náttúru Frómleike og gott Uppellde, at Hann sneidde sig hiá øllum Hreckia Tiltækium annara Skóla-Drengia, þótt Hann være gladlyndr at Lïkindum Allldurs síns, og leikenn i meira Lage.

Ared 1746. á 20 Are Alldurs síns, var Hann dimitteradr frá *Skálholts* Skóla, og fór utañ á sama Are, hafde Hañ þar til Farar-Eyrer frá Fóstra sínum Gudmunde. A þessu Hauste deponerade Hann, og komst i Tølu annara Studenta vid Háskólann i *Kaupenhafn*. 1748. tók Hann Examen philosophicum og Baccalaurei Gradum. 1749. geck út á Prent la-

 tinskr

tinskr Bæklingr *EGGERTS*, hvar Hañ sýner og sannar: At Eyen *Island*, hafi laungum Tíma ádr hún byggdest, þoted upp af Jard-Eldе; A sama Are var og prentad Kvæde Hanns fornyrkt, med latinskre Verſion, vidvikiande þeirre þriggia Daga Hátíd, sem þá var hallden Gude til Þakkinda, fyrer farsæla 300 Ara Ríkesstiórn *Oldenborgar* Ættar i Danavellde; Kallade Hann Kvæded:

**Þad uppvaknada Island.**

Anno 1750 kom Hann fyrst út aptr til *Islands*, á *Vestmanna-Eya* Skipe. Hann hafde miog idkad Náttúru Speke, og til meire Framfara þar i og frekare Reynslu, logdu þeir Lag sitt *EGGERT* og Biarne Paulsson, báder Studentar, at rannsaka giorr Náttúru þessa Lands; Þeir gengu þá uppá *Heklu*, skodudu *Geysir* i *Biskups Túngum*, *Krisivikr* Námr og fleire slíka Stade, þar sem voru at finna fásiedar Náttúru Verkaner. A sama Hauste fóru þeir báder aptr utann.

Uñ

Uñ þessar Munder, liet Friderich Kongr V. færa hier inn Klæda-Vefnad, og fleire nytsamar Kunster, sem Lands-Fólked kunne ei ádr, og varde Kongr þar til Stór-Fiám; At þetta mætte þvi helldr á gódann Grunnvøll byggiast, baud Kongr 1751, 23. Aprilis þeim bædum samann *EGGERTE* og Biarna, at fara til *Islands*, skyldu þeir rída uñ Landet og skynia þess Náttúru-Gæde og allt Asigkomulag; Boded var þeim einnig, at hugleida og sýna, hvorsu Koster Landsins kynnu hvervetna i Nyt at færast; Lagde Kongr þeim til nógleg Farar-Efne, og þar uñ frañ 200. Rixdala árleg Laun, og nockud Skotsilsr at auke. Báder þesser Konglegu Observatores komu út hingat 1752, og fóru sidann yfir mestann Hluta Lands, eins til ytstu Utkiálka, sendu þeir jafnódum, árlega þvi Konglega lærda Societæti, i *Kaupmannahöfn*, allt hvad fannst markverdugt uñ Asig komulag Dyra, Grasa og Steina ꝛc. til þess 1757, er þeir höfdu afloked sínu Verke, og fóru báder utann. Þegar Observatores komu frañ i *Danmörk*, þótte Lærdóms Societæti þeim



hafa

hafa vel tekest, og var þeim þá boded at skrifa saman sína Reisu-Bók. *EGGERT* helt þá kyrru syrer i *Kaupenhafn*, til þess 1760, þá Biarne Palsson Felage Hanns, var ordenn hier Land-Physicus, lagdest þá þad Verk á *EGGERT* einnsamann, at skrifa Reisu-Bókina.

A þessu Are kom *EGGERT* út, á *Patriksfiardar* Skipe, og settest at i *Saudlauksdale* hiá Máge Sínum Sr. Birne og Systur Siñe Ranveigu Konu hanns, helt Hann Vanda Sínum at skynia einart hvad fyrer bar, i Náttúrunnar þrefolldu Rike, so framt sem þar gafst Fære á. Sat Hann þar vid þetta Verk til þess 1764, þá hafde einhver Madr uñ Veturenn ádr flutt þat fyrer Hofdingium Kongs i *Kaupenhafn* at *EGGERT* doskade vid þetta Verk, og þessar Fortolur giltu so miked, at Kongsins Rentu-Cammer Collegium skrifade Honum, at Peningar yrdu Honum ei lengr greidder af Kongsins Fiárhyrdslu.

A þvi sama Hauste 1764 fór *EGGERT* utan, og er Hann kom til *Kaupenhafnar*, vóru

Hon-

Honum strax at nyu áqværdud somu Laun, sem ádr hafde Hann, og at so skylde standa á medann Hann være at fullgiora Reisu-Bókina yfer *Island*; Afslauk Hann þvi Verke i *Kaupenhafn* á þeim Arum. Sídann snere Hann aptr til *Islands* 1766, og giste enn i *Saudlauksdale*.

Ared epter var Hann settr af Konge Vice-Løgmadr Sunnann og Austann á *Islande*. Þá var þad Mál vitrustu Manna, sem þecktu Hann, at ei mynde her á Lande hafa lærdare Løgmadr vered. Miøg kom Honum þetta Embætte óvart, er Hann hafde alldrei þess beidst, enn Høfdingiar i Lærdóms Societæti vildu Hañ hefde nockra Sýslan á Hende, til almennelegrar Nytsemdar Sins Fødurlands, og útvegudu Honum þessa Nafnbót; Líka veittu þeir Honum eñ þá i Miñing hiñs fyrra Starfa og Þiónustu, nockra sæmelega Pension hvort Ar, Sier til Atvinnu, á medan onnr brýnare Fésaung lágu ei fyrer.

A þessu sama Are 1767, geck *EGGERT* at eiga *INGEBIORGU GUDMUND-*

*ARDOTTUR*, Módrbródr og Fóstra Síns, stód Þeirra Brúdkaup at *Reykiahollte* i *Borgarfyrde* á þessu Hauste; Þar var mestoll Sidaskipan og Veitsla at fyrre Manna Hætte, sem i Hofdingia Brúdkaupum var Vane hier á Lande á Fimtándu Olld, og nockud fram epter Þeirre Sextándu, þar var Brúdguma Reid, og Minne boren at fornum Sid. *EGGERT* Brúdgume villde sýna hvad sæmelega mætte klæda Fyremenn á Mannfundum, af einumsamann *Islendsk*um Fatnade, hafde Hann Þvi láted giora Sier vel vandadann Alklædnad, af Þessa Lands Efnum, og bar Hann þann sama á sidarsta Dege Sinnar Brúdkaups Veitslu. Marger voru sliker Hanns Hætter, er hnigu aller at Þvi, at Hann villde allskostar á Lopt halda, hinne gódu og gomlu Landsvenio, og Forfedranna Hófseme, enn eyda Fyrerlitning Síns Fodrlands.

Um Vored ádr hafde *EGGERT* Løgmadr reist Bú á *Hofstaudum* i *Fya* Hrepp, og efnad þar stóra Bygging, sem Hann ætlade

Siálf-

Siálfum Sier til Herberges, skipade Hann þar Búrádum at Hauste, sem Honum sýndest, enn þaug Hión Herra *EGGERT* og Frú *JNGEBIORG*, fóru strax epter Brúdkaup sitt, vestr at *Saudlauksdali*, og voru þar um̃ Veturenn, þvi Húsa-Smídenne á *Hoffstaudum* var ei so fram̃gengt, at þar være þá byggelegt.

Um̃ Vored, kom sunnann yfir *Breidafiörd* stærste Attæringr, sem var under Jökle, at sækia Þaug Hión, med þeirra Fylgd og Fe: J þetta Skip var flutt allt Þeirra Góts, meir enn til 600 Rixdl., þar á medal mörg og sialdsengen Manusc. og Fornalldar Bækr, sem þar týndust til stórs Skada.

A Trinitatis Hátid árla, fóru þaug Hión frá *Saudlauksdale*, med Fylgd Sinne, og hlyddu Messu i *Saurbæ á Raudasande*, þadan ridu Þaug seint um̃ Kvolld, med nockrum fleirum Monnum, út at *Keflavík*, hvar Attæringurenn lá fyrer, var Formadr Gissur Pálsson, hann hrósade miog Skipinu, og kvadst alldrei trúa at þvi mynde ósær verda Rúmsiór á Sumardege

dege her vid Land. Þrír Menn adrer vóru enn til Lids sengner, Gudmundr Gunnlaugsson, Gudmundr Jonsson og Jon Þorsteinsson.

Sídann geck þad Fólk þar á sem flytiast skylde, var þar fyrstr Herra *EGGERT OLAFSSON* Vice-Løgmadr, þá hafde Hann lifad 41 Ár og 6 Mánade. " Hann var med hærre Mønnum at vexte, helldr grannvaxen at þvi Skape, Herda mikill, ecke miøg hár i Sesse. Hendur Hanns og Armlegger vóru mikler i Lidum og sterkleger, Hann var rettvaxenn og fliótstigr i hvors Dags Framgánge; J Andliti var Hann liósleitr og grannleitr hafde i Æsku biart Hár, sem þá var svart orded, Brúna Hár hafde Hann dockleit, enn Skegg Hár hvít, sem Hærur verda fegurstar, Enned var mikid; Ofan til-vid Gagnaugat vinstra, var Hann fæddr med liósgulum Dóla, sem nockrer Menn kalla Valbrá. Hann var fagreygdr og nockud fasteygdr, Nefid var i meira Lage, Lidr á i Midiu, og nockud nidr biúgt, Kiálka-børden hvøss, Hakan stutt og atdregen, allt var þó

And-

Andlitid, epter Vexte, jafnt vid sig; Hann var hyggelegr Madr i Tillite, alvarlegr, og þó liúfmannlegr; Hañ var gyldr Karlmadr til Burda, Manna lettaſtr, og ſo fræfenn hvad ſem reyna ſkylde, at fæſter jøfnuduſt vid Hann, brattgengr var Hann i Fiøll og Kletta, þurfte Hañ opt til þeſs at taka á Sinne Obſervations Reiſu. Hann fór hradara á Ondrum, enn nockr Madr mætte fylgia Honum á Hlaupe."

Añar Madr geck þar á Skip Frú *JNGEBIORG*, Kona *EGGERTS*, Hun var þá nær hálf-fertug, var Hun med minne Konum bæde at Hæd og Þyckt, liósleit miøg i Andlite, og ecke þyckleit, nett Kona og kveñmannleg, hæferſk og litelát vid alla Meñ i Umgengne; Yfferbragd Hennar bodade einaſaman Hógværd og Liúflynde.

Þridie Madr var Ofeigr Vernhardsſon Studioſus 22 Ara, mægr Madr, føl-leitr, nockud óſtyrkr til Burda og Heilſu, enn Námsmadr og vel hvaſs i Skilninge bæde til Lærdóms og Skáldſkapar, og Ritare gódr. Hafde hañ vered Þienare *EGGERTS* á þeim Vetre.

Fiórde var Valgerdur Jonsdotter, 17 Ára gømul, Þiónustu-Stúlka *JNGEBIARGAR*, velsidad Ungmenne: Hun var so frum-vaxta Mær, at á þeim Alldre jafnadest hun at Vexte vid flestar rosknar Konr, og nærre þvi var hun jafngørfugleg i þm̃ Handyrdum, sem hun hafde numed. Ei vóru fleire Menn á Skipinu, enn þesser átta, sem nu vóru talder. Annar minne Attæringr, sem *EGGERT* átte fylgd-est med, á honum vóru 4. Menn

Bæde þesse Skip løgdu frá Lande i *Keflavik* þann 29da. Maji þegar Sól var i Utnordre. Allann þann Dag var Logn og Hita Sólskin, og óskudu marger Byriar, heldu bæde Skipen fyrer framann *Raudasand*, sudr i *Skor*, og lend-tu þar um̃ Ellding Nætr. Flestaller fóru þá á Land, og Konurnar lika. *EGGERT* Løg-madr tók þar nockrar Burni-Rætr blómgad-ar, og liet bera á Skip handa Konunum at þefa af, ef þeim yrde Ogladt á Siónum.

Um̃ þad Mund er þeir lendtu i *Skor*, sáu Menn Vedrabrygde á Lopte, dró upp Myrk-

va

va og Mistr úr *Gilsfiardar* Botne og *Breidafiardar Daulum*, líka var þá nockud fared at hvessa, þo ei meir enn so, at Fiskemenn reru úr *Skor*, og eins frá *Siglunesi* á *Bardastraund* sudrundan. Þá tóku tveir *Skorar* Menn til Orda: Þad betra være Ferdamoñum at bída þar nock ud fram á Dagenn. **Løgmadr** leitade Ráds vid sina Menn. Þesser sem nýkomner voru yfer Fiordenn løgdu misjafnt til, enn i þvi kom þeim øllum saman, at þeir villdu af Stad fara, og ecke bera af Skipunum; Frú *INGEBIORG* fýste þess og miøg, og kvad sier mynde leidast Biden. Þeir sem voru þá i *Skor*, segia **Løgmadr** hafi sagt: **Vid skulum fara i Guds Nafne, þeir hierna, vita ei betr hvad fært er, enn þid.** Gengu þá aller á Skipen og lietu frá Lande; Var enn hægr Byr Austnordann, setteſt **Løgmadr** at Stiórn. Þá var skamt faren Sól, er þeir løgdu á Fiordenn, þann 30 Maji 1768.

Þegar þeir voru komner, sem svarade Visku, undan Lande, þá tók miøg at hvessa og dimde

de i Fiördenn, enn dockte Lopt. Hid minna Skiped fellde þá Segl, andæsde um̃ Stund, og snere aptr upp i *Skor.* Þesser sáu þad sídast til *EGGERTS*, at Hañ sat vid Stiórn sem fyrr, bar Skip Hanns fram̃ hiá þeim, þángad til þad hvarf, nema Segled eitt, og sídann alltsamañ yfir i Fiardar-Dim̃una. Fleira vita Menn ei til þessa optnefnda Skips. Þennañ 30 Maji, giørde allra mesta Stórvidre og Osió á *Breidafyrde*, og var hvørt-tveggia at vaxa allt fram̃ um̃ midiann Aptan. Þottust gamler Menn ei hafa sied so miked Hafrót; Enn þad biargade Fiske-Bátum sem róed høfdu, at strax sneru aptr, og voru komner til Lands fyrer Dagmál. Þanneñ mistum vier þañ Lands-Mann vorn, á betsta Alldre, sem á þeim Tíma þotte einhvor líklegastr Madr til Gagns og Sóma sínu Fødurlande.

Nu er *EGGERT* horfinn, enn af þvi þad fer ei at Verdleikum at med Honum hverfi Minning Hanns, so hin ókomna Olld vite ei Grein á þeim Manne, sem i øllu villde vera

henne þarfr, þá mun nu sagt verda um̃ Skaplynde Hanns og Athafner, þvi ádr er sagt um̃ Yfirlit Hanns, hvilikr hann var, er Menn litu Hann sidarst.

*EGGERT* var Madr stødugslyndr, nockud Ahyggiusamlegr, enn þó gladvær daglega: Vid Sorgar- edr Glede-Tidinde sá Honum eingenn bregda. Vid smáar Afgiørder Manna var Hann nockud ákafr, enn Manna stilltastr, ef Honum var miked tilgiort, og var Hann þá nockud fálátr. Þegar Hann sagde Meining sina, var Hann einardlegr og nockud seintaladr; Vidkvæmr ef Honum var tilgiørt i þeim Efnum sem snertu Sóma Hanns og Virdingu. Bæde i Klæda-Burde, Mate og Drycke var Hann meste Hófsmadr: Þeim sem Hann visse at ecke vøru Ølmusu-Menn gaf Hann alls ecke þó þeir beiddu, enn hinum sem rett vøru til þess komner gaf Hann orlátlega, og opt óbeded. Ættrækenn var Hann, og hvar Hann kom þvi vid, leitade Hann Frændum Sinum þeirrar Menningar, sem þeir vøru hæfir til, en̄ vanda-

 laust

laust kvad Hann sier vera vid þá, sem ecke vilðu til góds skipast. Hann var so Reglubundenn i Háttum, ad ei villde Hann lída nockra Umbreyting, i hvørs Dags Atbúnade, Jðn edr Tímaskipan. Hann elskade miøg sitt Fødurland, og vilde alldrei samþyckiast þeim, sem annadhvørt hotudu Landed, eda leitudu sier Fiár og Frama med þess Skada. Øllum nýum Uppáfinningum, sem gagnlegar voru, helldt Hann á Lopt, hvør sem færde Honum þær, og giære sá sýnt af eigen Reynslu, Nytseme þess er hann hafde fundeð, feck hann stundum Umbun fyrer. Øll Præjudicia Almúganns, edr annara Manna rángar Meiningar og Einþyckne, leitadest Hann jafnañ vid at uppræta, eñ sýna Moñum annad sannara. Alla Æfi var Hann fiarlægr Prætum, og Afskiptalaus var Hann um Deilr Manna, nema hvar Hanns Tilhlutan gat valded Sáttum.

A Hanns 4 sídurstu Arum, hafde Hann fenged mikel og þeckianleg Sinnaskipte. Hañ hafde frá Ungdóme studerad Philosophie, helt

Hann

Hann þá mikeð af þeim Hyggendum, hróſaðe Heims-Spekenne og Fullkomlegleika hennar Dygða, rett eins og Hanns Hugr myndaðe ſier þá, enn ſiðañ tóku þeir at verða Honum grunſamer. Hann fór at leſa Helge-Bækr, helðſt vors DRottenns JEſu Chriſts Nya Teſtament, ſiðann Skrif þeirra ſælu Manna, Luthers, Arndts, Skrivers; Frankens og Reuſſes, ſem þá voru við Hondena. Uppfrá þvi lagðe Hann þvi minne Virðing á Heims-Spekina, ſem Himen-Speken hafðe upplóſt Hann betr, enn hinn kunne at giora. Alla Daga ſina hafðe Hann trúrækenn Maðr vereð, vandlátr at Helgehallðe og Guðs Þiónuſtu, hvað Philoſophien og ſo kenner, enn það kom nu af helgare Grundvelle og æðre Rokum. At þetta ſie Sannleikr, bera glóggaſt Vitne um̃ Hañs ſiðurſtu Kveðlingar, einkum Pſalmr einn, ſem er acroſtichis epter Nafne Hanns, og Hann giorðe á ſinu ſiðarſta Are. Ei ſiðr er það merkelegt, at hier um̃ 14 Dogum, fyrr enn Hanns miſte ſeinaſt, orðte Hann Kvæðe það, ſem Hañ kallaðe Endr-Kvidu, eðr Polinodiam, til A-

 lykt-

Alyktunar allra siña veraldlegra Kvæda, telr Hañ þar upp þá Breste, sem Hañ siálfr sañ á þeim, greiner Hañ þar líka, hvad sig hafi villt til þess at gøra sum af þm,eñ gánga út yfir Takmork i odrum. Bæde Psalmriñ og Kvidan eru til, med Hañs eigen Hende og Arstale þegar Hañ giörde þaug.

Nu skal þess geta, er Hann tamde Sier mest: Strax frá Barnæsku var Hann settr til Studeringa, og vid Lærdóms Menter ól Hann allann Alldr Sinn. *Latinska* Túngu lærde Hañ hier i *Skálholts* Skóla, og so miked af *Grisku* sein þar var kendt: Erlendes lærde Hann *Danska*, *Svenska*, Þýdska, *Enska* og *Franska* Túngur: Uñ þad Leite Hann kom til *Islands* 1760 var Hann farenn at læra *Italienska* og *Portugisiska* Túngu, vard Hann vel skiliande þá fyrre, eñ hina midr. Hañ studerade mióg fornum Frædum *Danskrar* Túngu, edr Antiqvitt. Patriæ, og hvad lángt Hann hafi komest i þeirre Ment, sýna þaug Skrif Hanns, sem enn eru til. Eiñ hálærdr Landsmadr vor i *Soröe* Herr Professor Erichsen, sem Honum var kunnugr frá Æsku, gefr Honum sanngiarnlegann Vitnisburd i siñe Bók om *Islands* Opkomst § 72. Skrif

# Skrif
## Logmanns
# Eggerts Olafs Sonar
eru þesse hin helstu.

### I.
### Philologica, & ad Antiqvitt. Pertinentia.

1.) Collectanea vocum, Sententiarum, rerum Memorabilium, Chronotaxeos, úr flestollum *Islend*skum Sogum, og ødrum Antiqvitæter, var þad Underlag til Philosophiam exemplarem Veterum. borealium, ad historiam, pro fundamento Lexidii, ad illustrationes in Oeconomia & Physica. &c. 6. Tomi in 4to. jam deperditi.

2.) Registr og Formále yfir Eddu Codicem Regium, um Uppruna Eddu og hennar fleire Auctores, og um marga Odna. etc. deperditum.

3.) Stutt Alldafars-Bók, edr Annalar fraa *Islands* Bygging, einkum uppá Revolutioner, Hondlan, Log, etc. med Synchronismo úr aðara Landa Historium. deperd. nema sie i Danskra Manna Hondum i *Kaupenhafn.*

4.) Theologia Gentilis Populorum Septemtrionalium Systematice proposita.

5.) Vocabularium Islandico Latinum, nockra vandra og óveniulegra Orda, hier um 10 Arker.

6.) Glossarium Gallico Islandicum. deperdit.

7.) Glossarium Anglico Island. deperdit.

8.) Glossarium Germanico Island. deperdit.

9.) Vita *Olafs* Hvíta-Skállds og *Sturlu* Løgmanns Bródr hanns, item latinsk Versio Vísna *Olafs* Hvíta-Skállds. deperdit.

10.) Greiner útdregnar úr Fragmento *Isodori*, contra Judeos, i þeirre gomlu lingva *Theodisca*, sem er skrifad nærre fyrer 900 Arum, med þvi villde Hann sýna, at Túnga Nordrlanda hafi vered hin sama sem hin gamla *Theodisca*, her um 8 Arker. deperd.

11.)

11.) Utlegging og Annotata yfir Heims-Kringlu *Snorra Sturlusonar*, komed fram at *Haralldz* S. *Sigurdarsonar*.

12.) Tentamen & Clavicula Geographie Veterum Septemtrionalium. - deperditum nema lijtel Excerpta þar.

13.) Rettrita-Bók *Jslendinga*, og annad Agrip þar af; sem frá Auctore feck Hr. Land-physicus *Biarne Paulsson* 1762.

## II.

## Philosophica, Moralia, Politica.

1) Greiner wtdregnar af *Balthasar* Gracians l'Homme de Cour. Hier um 8 Arker.

2.) Harma-Tølr epter *Lovisu* Drottningu, þrycktar i *Khafn* 1752.

3.) Harma-Tølr epter *Gudmund Sigurdarson*, þryckar i *Khafn* 1755.

4) Brúdkaups-Sida-Bók, med Formálum Saungvum vid Minne.

5) Excerpta i *Norrænu*, mest um Philosophiam Exemplarem wr *Livii* Historiis; wr

*Seneca* Bók um̃ Velgiørder, og wr *Plutarcho* um̃ Laga-Setning *Licurgi*. deperd.

### *III.*

## Physica, Mathematica, Oeconomica.

1.) Enarrationes Historicæ um̃ *Island*, Pars I.ma Þr. 1749. Pars II.da er til Oþr.
2.) Disqvisitio um̃ Superstitiones Circa ignem Subterraneum, hier af Þrycktar 2 particulæ, loco disputationes, pro Coll. Borrichiano.
3.) Liber Memorialis Bothanologia. deperd. nema litil *Excerpta* hier um̃ 2 Arker.
4.) Potologia, edr Bæklingr sem Hann kallade: Drekka bidr góð Ata, Þad er um̃ allslags Drycke, sem brúkast á *Islande*.
5.) Lachanologia Islandica. deperditun Agrip hennar sem þá var epter, er Þryct i *Kaupenhafn* 1774.
6.) Reisu-Bók Þeirra *E. O. S.* og B. P. S. yfir *Island*, skrifud af *EGGERTI*, sem Videnskabernes Selskab i *Kaupenhafn* liet Þryckia Þar 1772. i 2ur Toms.

## IV.

## Juridica.

1.) Samannsafn ymissra Laga *Islend*skra og *Nor*skra, sem voru: Grágásir bædar, [Codex Vulgaris og Reformatus] Járnsida, edr *Hákonar*-Bók, Gulapings Løg hin fornu, Gulapings Løg *Magnuss* K. Frostupings Løg *Hákonar* Kongs, Onnr *Magnuss* K. Eidsivia Løg hañs, Biórgvinar Løg, Farmanna Løg, edr Biarkeyar Rettr. Borgar Rettr *Hákonar* Kongs, Hirdskrá, Túnsbergs Løg, Oslóar Løg, og fleire Privilegia pessara Stada, Kristenn Retter, Statutur og Rettarbætr, Løg *Waldemars* annars. Yfir øll pesse Løg hafde Hañ giort morg Annotata, einkum yfir vandskildar Greiner peirra, var peita Safn 8 *Tomi* i *Regal Octava*; alltsamann ritad af Prestenum *Sira* Odde Jonssyne, sem pá var Pienare *EGGERTS* (og med Hanns var líka skrád mest af pvi ádrtalda) alltsamann deperd. B 5 2.]

2.) Líted Glossarium Juridicum, edr Fornyrde *Islendskra* og *Norskra* Laga, med *Latinskre* Version. - deperditum.

Kvæda-Bók *EGGERTS* sýner hvad gott Skáld Hann var, hun hefr inne at hallda Kvæde yfer ymsar Materiur mørgum af þeim sem fornyrdt eru, fylger *latinsk* Version, vard Hann fyrstr *Islendskra* Manna til þess, at yrkia Kvæde um *Danmerkur* og *Norvegs* Kong, sídann þad lagdist af her um fyrer 500 Arum, edr sídann *Sturlúnga* Tíd.

Af því Hann var Teiknare gódr, þá hefr Hann teked Prospectum af ymsum Fiollum, Utkiákum og Fugl-Biørgum, ꝛc. Hann giørde Schildirie *Islendinga* Flaggs, er FRIDERICH Kongr V. leyfde Interessentum at brúka, med hofdudum Þorske, og þessum Bókstofum *PII*, ɔ: *Privilegeret I s l a n d s Interessentskab* 1752.

Globum Artificialem teiknade Hann og málade, sem enn er til. Þó miked af Verk-

um

um' Hanns sie horfid frá Siónum Mañа, eins og Siálfr Hann, þá er þó so miked epter, at þad getr sýnt Lærdóm Hanns, Skáldskap og Jdiuseme, og hvørs *Island* mátte vænta sier af Honum, hefde Hann endst til at þióna þvi lengr.

Niótе nu, góder Landsmenn, þessa Dæmes. Hanns Framferde má vera Fyrermynd þeirra Manna, sem i Æsku vilia giøra sig hæfa til Kongsins og Fodurlandsins Þiónustu. *EGGERT* hafde fared uñ allt Land, og þvi þecktu Hann marger Menn. Nu vitna eg til allra þeirra, hvørt Hann sie oflofadr i þessare Æsi Hanns? Enn Gud vere æ þess lofadr, at hañ gefr marga góda og gagnlega Menn af vore Þiód! Hann láte marga þá, sem hier i Lande eru nu meger fyrer Módur Kniám vaxa til þess, at þeir verde *EGGERTS* Likar, þvi einu fráskyldu, at Landed mege þeirra lengr niota.

# Ættar-Tal
## Løgmanns
# Eggerts Olafs Sonar.

Atle Jarl hinn Miófe rede fyrer *Sogne* i *Norvege*, hañ bardest vid Hakon Jarl Griotgardsson, og dó úr Sárum *Circa* = = 880

Hallsteinn Sonr Atla, kom út til *Islands*, hann andadist i Elle *Circa* 917

Atle Hallsteinsson, bió i *Tradarhollte* og dó þar = = 938

Þórdur Atlason, feck Þórunnar Asgeyrsdottr Austmanna Skelmis. Þórdur fór utan, og spurdest alldrei meir til þess Skips, þad var = 951

Þorgils Sonr Þórdar, kalladr Orrabeins Stiúpr, var þá hálf siotugr Madr, er hann feck 1014 Helgu Dottr Þorodds Goda Eyvindar sonar á *Hialla*. Þorg. andadest 1039

Grímr

Grímr Glamadr, var Sonr Þorgils og Helgu.
Ingialldr Grímsson Glamadar.
Grímr Ingialldsson.
Einar Grímsson, bió á *Kalldadarnesi*.
Hallkatla Grímsdótter, hennar feck Rafn Sveinbiarnarson, Bàrdarsonar Svarta, Atlasonar, Höskuldssonar, Högnasonar Heppna, Geyrþiófssonar ens Gamla. Rafn var vegenn . . 1213
Herdís Rafnsdótter, hennar feck Sigmundur Gunnarsson . 1235
Sveinbiörn Sigmundsson Sudvíkingr, dó *Circa* . . 1290
Eyríkr Sveinbiarnarson, feck Vilborgar Einarsd. Vatnsfyrdings Þorvaldsſ. Eyríkr Riddare dó 1342
Einar Eyríksson Riddare, átte *Grundar* Helgu, dó 1383
Biørn Einarsson Jorsalafare, átte Solveigu Þorsteinsdottr, hann andadest . . . 1413

Chri-

Christin Biarnardótter Jorsalafara, kollud Vatnsfiardar Christin, gifteſt Þorleifi Bónda Arnaſyne, enn doo . . . 1459

Biørn Þorleifsſon, vard Riddare, og Hirdstióre 1457, hann feck Olufar Loptsdottr Rika, var vegenn 1477

Þóra Laun-Dotter Biarnar, gifteſt Gudna Jonsſyne á *Laugabóle*, Asgeyrsſonar, Arnaſonar.

Biørn Gudnaſon, feck Ragnhildar Biarnadottr, doo . . . 1517

Gudrun Biarnardotter Elldre, gifteſt Hanneſi Eggertsſ. Hirdstiora.

Biørn Hannesſon, feck Þorunnar Dadadottr Gudmundsſonar, hañ doo . . . 1557

Hannes Biørnsſon, feck Gudrunar Olafsdottur Jonsſonar, Einarsſonar frá *Geitisſkarde*, doo . 1627

Hallbiørg Hannesdótter, gifteſt Þorleifi Jonsſyne under *Múla* á *Skálmarneſi*.

Einar

Einar Þorleifsson, bioo under *Múla*.

Þórólfur Einarsson, feck Þorkötlu Finnsdottr Jonssonar Biörnssonar fraa *Flatey* 1639, Þórólfur drucknade Circa - - - 1649

Ingebiørg Þórólfsdótter, var gift *Sira* Niculase Gudmundssyne, Hann doo 1708, enn hun 1706

Gudrun Nikulásdótter, giftest Sigurde Sigurdarsyne, Løgsagnara i *Bardastrandar* Syssu, hun doo 1731

RAGNHILDUR Sigurdar Dótter, giftest 1725 OLAFI Gunnlaugssyne, doo - 1768

*EGGERT* var Sonr OLAFS og RAGNHILDAR.

# Annad Ettar-Tal.

Gudmundur Arason œ *Reykholum* kalladr hinn Rike, þvi hann ætte Fimtiju Hundrud Hundrada um Haufted 1443, þœ hœlf Aleiga hanns fell under Christfara Kong.

Andres var Laun-Sonr hanns, og feck Þorbiargar Olafsdottr 1462, hann feck Verndar-Bref Kongs Christians *I.* ꞉ ꞉ 1496

Gudmundur Andresson, feck Jarþrudar Þorleifsd. frœ *Reykholum.*

Þorleifur Gudmundsson, feck Ingebiargar Jonsd.

*Sira* Jon Þorleifsson i *Gufudal*, Officiali i Reformations Tijd, og nockud þar epter.

Þorleifur Jonsson under *Múla* œ *Skálmarnese.*

Einar Þorleifsson. vide supra.

---

Þrid-

# Þridia
# Ættar-Tal.

Gudbiartr Prestr i *Laufáse.*

Þorkell Gudbiartsson, Prestur og Officiali, feck *Grenjadarstad* 1430.

Magnus Þorkelsson at *Svalbarde.*

Jon Magnusson at *Svalbarde.*

Sigurdur Jonsson at *Reynestad.*

Jon Sigurdarson Løgmadr.

Sigurdur Jonsson, feck Katrinar Jonsdottur fra *Laufáse.*

Sigurdur Sigurdarson, feck Gudrunar Niculasdottr.

RAGNHILDUR Sigurdar Dótter.

*EGGERT* Hennar Son.



Epter Løgmann

# Eggert Olafs Son

hafa ortt:

I.

Profastur

Sira Gunnar Paulsson.

II.

Løgmadur

Herr. Sveinn Sölvason.

III.

Profastur

Sira Thorlakur Thorarensſ,

IV.

Vissur

Landfogeta og Sira Gunnars.

Ept-

Epter ágætann
# Merkes Mann
Sáluga
# Eggert Olafs Son,
Nÿlega ordenn
## Vice-Løgmann
Sunnann og Austann á Islande,
Fra þessum Heime burt-kalladann
(Þad gløggvaſta Menn til-vita)
## a Breidafyrde
Mánadagenn i Fardaga-Viku,
Arum epter Guds Burd
MDCCLXVIII.
Eru þesse fáein Erende kveden af einum
Hanns Elskara,
og þeirra goodra Hluta sem Hann var med af
Gude Príddur.

---

Med Lag sem Elle-fró Sr. J. M.

I.

Aller tala um *EGGERTS* Skip,
aller spyria og sakna,



vid

vid Þann mikla Sioonar Svip
sannlega meigum vakna.
Enn hvor mun epter Hann,
yrkia so sem yrkia ber,
agiætasta Mann?
Til Þess ecke treyste eg mier,
enn treyste hver sem kann.

II.

Yrken Hanns eru Yrkia best,
ef epter Hann skal mæla:
Verken fogur, vitum flest,
sem viist er skildt ad hæla,
og margfaldt Lærdooms Lioos;
Asynd skiir med Gæsku Gnægd,
gøfugt Dygda-Hroos,
Þessa bar yfer flesta Frægd,
forgyldt Landsens Roos.

III.

Nu veit Gud, hvørt nidur i Sjá,
næde ad Grunne sockva,
Þegar æstest Alldann blæ,
og Ognar Vedred dockva,
ella hefur Hann,

Skipe

Skipe edur Lande nockru 'næd,
neinn þad greina kann:
Berlast mier i Briooste Ræd.
um̃ Bysna Tilburd þann.

IV.

Tregur em 'eg ad trúa þvi
traudt sem heyra villde,
enn gef þo Maaled Guds Valld i,
giorla hver þad skilde,
ad Vedur vard Ofært;
Aungvu Skipe voru vier,
vissum þvilijkt bært:
Getur Daudanns giore þvi mier,
um̃ Gøfug-menned kiært.

V.

Umm Hanns Háttu og Æfi-stund,
ætla eg þeim ad skijra,
sem kunnast var 'um̃ Lijf og Lund,
þess Lista-mannsins dijra:
Enn fagurt fannst mier allt,
vitugt, stødugt, giæted, gløggt,
gladlyndt, hoossamt, smallt,

 enn

enn Þvi vard so snwed snøggt,
og Snotran løgd i Salt.

VI.

Ef Hann siálfur Salte i,
sesur a Marar-Botne,
audgengt Mønnum er ad. Þvi,
ad alldrei Þesse rotne,
Hanns Æran Odaudleg;
Flutt med Hønum i hærre Stad,
hefst a allann Veg;
Finnst Þar allt Þad fullkomnad,
sem frestar Hierviſt treg.

VII.

Vor á medal Minning Hanns,
mun Ofwen vara,
utann bæde og innann Lands,
ei til Rijrdar fara:
Ungur avann Þad,
a Roſkenns Alldre reyndeſt meir,
enn rett i hvørium Stad;
Ofundar ſkeitte lijtt um̄ Leyr,
og lægt hann Footum trad,

VIII.

VIII.

Vier þótt søknum Viner Hanns,
Vanda-Menn og Frændur,
vitum samt ad vijst til Sanns,
var Hann aungvu rændur,
enn fluttur i sfegre Stad:
Allt hefur betra þeged þar,
þad var æformad;
Reidubwenn ad vijsu var,
i Vista Skipted þad.

IX.

Veraldar Glampenn villte HANN ei,
var þad miklu dyrra,
hier sem rækte i Hugar Þey,
helldur enn margt hid nyrra:
Himneskt, Lijkamlegt:
Orda og Hugar ydka vann,
ægiætasta Spekt:
Gladlegt, froodlegt, gagnsamt fann,
þad geck Honum ecke tregt.

X.

Allt ef villda eg tína og tiá,
til sem hafa kynne,

tassamt yrde Tal mitt þa,
til þess wt þad rynne,
enn hverge hálstalad,
ödrum slijks eg unna vil,
sem yrkia ei skialstakad,
lijka sumt eg Lydum skil,
liooft og sialstalad.

*XI.*

Eingenn hlaut þar uppá siá,
ad Hann siwkur lægé,
eingenn lidenn lijta Ná,
Lista-Madurenn fræge,
heill fra Heilum foor:
Eingenn Grafar-Gratur vard,
giorst sem hefde stoor;
leit ei Eckia Skialldar-Skard,
þau skilde ei Land nie Sioor.

*XII.*

Samann glader vórum vier,
Viner opt og tijdum:
A soddann Hvarfi hægast ber,
Hels þad lietter Strijdum,
nær sæll fer sælum fra:

Aptur munum sællre siaſt,
siјdar Himnum a,
hwa samann med Ynde Aſt,
eilijfum Gude hia.

*XIII.*

Umm einſkis heyrda eg annars Lát,
almennt feingeſt meira,
Tal og Sedlar tia Þann Græt,
eg tala ei Þar um̃ fleira,
enn soddann Sæmdar-Vott,
hvers Manns Briooſte ad hafa i,
helld eg miked gott,
vel nær komeſt var ad Þvi,
enn Vielen fæda Spott.

*XIV.*

Þó Lande voru Hanns Løgſagnar,
leiſdeſt ecke ad nioota,
til annars fallenn vel Hann var,
vijſt sem nade hlioota,
Hefdar i Himna Stiett:
Hinn sinnte Hann hardla lijtt,
hafi eg ſkiled rett:



Gud

Gud hefur Honum wr Faare flytt,
ad fordast Mædu og Prett.

*XV.*

Hanns Løgsagnar hlakka til,
heyrda eg ysrid marga,
og vel a slijku visse Hann Skil,
Vondu giarn ad farga.
Enn hver veit hvernenn þa,
fared hefde framar meir?
Færre hins betsta gaa:
Rijsa a moote morgu þeir,
minnst sem Von er a.

*XVI.*

Bending er nær betstu Menn,
burt fra Heime kallast;
Graatur bæde og Glede senn,
Goodum Skaut i fallast.
Enn Verolld siaae um̃ sig:
Um̃ hvorugt gefur hun sig par,
helldur spreitingslig,
þo Guds Ord Synda Giolden þar,
greine hryggelig.

*XVII.*

XVII.

Enda far nu EGGERT vel,
eilifar Lijfs um̃ Stunder,
Astmenn Þijna fws eg fel,
Frelsaranns Geymslu under,
og allann Landsins Lijd.
Søknudur Þinn er sar um̃ Stund,
enn senn gefst betre Tijd:
Hvorn Þitt tekst a Hendur Pund,
Hamingian stydie blijd.

## Litill
# Vidbæter
Dróttkvedeñ.

Fór med EGGERT orom,
Unnar nidr at Grunne,
HUSTRU Hende festa,
HONNUM glic oc skyld lika.
Fór med EGGERT orom,
Annat gódra Manna:
Fór bókligra und Bárur
brattar gód Eign Sióda.

Ann=

Annat var þá ec inne,
*EGGERT* hvadar-tveggia
kom oc gladde Guma
góðkendr oc Rit sende.
Her um mæle ec at meira,
mik snart Ør til Hiarta.
Liós brott hvark or Húse,
hvark priðust Lands Príde.

Enn Breidafiardar hinn brádi
Breke, hvat hefir þú tekit?
Hroller Hugr minn illa,
Hefni-Lióð hier efna.
Enn þu eingu kunner
*EGGERT* kæfa inn ræna,
helldr á Heimleið fylgder
Himna-Ranns Guds Manne.

Vitt giörder þu Embætte,
þins Bod Herra skodum:
Framarr vid Drottenns Dómum
dyrfunz vær ei hræra.
Enn *EGGERTS* Leifar life
Land vort æ pridande:
*EGGERT* liúf-preidr life
Laundum göfugr öfre.



# Sorgar Liood
Epter Sál.
# Eggert Olafsson
Kongl. Maj.ts
## Vice - Laugmann
Sunnann og Austañ
á
## Islande.

Under. þí Sorgar Lage:
Davíd fór aptr i Ziklag, etc.

I

Sárt er at qveda Sorgar - Lióð
Saññreynden þvilíkt keññer.
Eñ ef þú Músa ert svo góð
ok under - halda neññer
Tára - Bikar sem Tíðin gaf
tek ek her nockrum Dropum af
spakri Haund þar um speññer.

II.

Veit ek at margr meira feck
af Mara-Becks Uppsprettu
þó latz ek fitta lítinn Smeck
ok lángar til þess med rettu
at syrgia iafnt med Syrgendum
so sem glediaz med Fagnendum
eldstu Laug upp þat settu.

III.

An Vokva kvikna eckert Lif
i vorum Jardar Heime
skyllde min Sál so stird ok stif
at stundum til Vatns ei dreyme
eingin verdr svo (1) Æggen herd
allra sídst þat hid besta Sverd
utan i Aulldu sveime.

IV.

Vor gamla Módir var svo þyrst
Vatnid ei missa kunne
þer vitid hver þad vigdi fyrst
ok

ok vottar i Ritninguẟe.
Reẟandi Løg ok saltaẟ seẟ
svo trúe ek víst haẟ helgat eẟ
at skiärum Skirnar Bruẟe.

*V.*

Þat fylger vorre Adams Ætt
ek þó fátt segia kuẟe
at smacka bæde súrt og sætt
siẟ Tíd af hverium Bruẟi.
Mímis Uppsprettu einum af
audrum fremr Náttúran gaf
mentum at svala Muẟe.

*VI.*

Ef her var nockr Rós á Qvon
af Lista Bruẟe gladr.
Þá var þat EGGERT OLAFSSON
ordiẟ Vice-Laugmaþr.
Ek qved til Vitnis alla seẟ
(2) Appollinis Vebanda-Meẟ
Ofund gefz eingi Stadr.

*VII.*

VII.

Vorer liúfu Lands-Høfdingiar
lærdir i bádum Staundum
ok þier vilduſtu Víſundar
vaxner i audrum Laundum
ydar Saþmalis ek nu krefz
ef at mer Leyfi þar til gefz,
undaþ ſva háfum Haundum.

VIII.

Segid ef nockr ſú var Ment
ſem EGGERT let ó-hrærda
ok Haunum var ei allvel hent
á Bord vid fleſta Lærda
Náttúru Gáfa náqvæmleg
Nám ok Stundan á aþaþ Veg
feck i Høfud iþ-færda.

IX

Var þat (3) Gudfrædis Greina-ſkil
(4) gamlar ok nýrre Túnge
(5) ſkodunar-ſpeke ok Verks (ek vil)
Hann

Hans visse (6) Túngls Utsprúngr
(7) Aldafars-Radir, (8) Aldin-Gagn
allt þat sem stirkir (9) Baar-Magn
(10) ok sineMa fór Hans úngr.

X.

Jardar-Fidr ok (11) fólgen Bein
fór Hans unn Land at kaHa.
Hú má her teliaz Jþrótt ein.
(12) allra best vorra MaHa
blandade medr Lærdóms List
Lióda Menten var Haunum fyrst
sem veglig Verkin saHa.

XI.

Af soddan Guda dýrum Dryck
ok driúgu Menta Safne
qvad Hans unn sæla Kong FRIDRICH
Kong Skálda meir en Jafne
ok þo MeH lesi ymsa af þeim
sú Ærfi Drápa unn Nordr-Heim
upphelldr æ Hanns Nafne.

XII.

Allt hvad prýdde þaɫ Edla Maɫ
ei fæst i naumu Tóme
upptaled, hvíat ek veit Haɫ
Ættar=Laukr ok Sóme
utaɫ bæde ok iɫaɫ Lands
aukid hefr siɫ Dygda Krans
meirr eɫ at minum Dóme.

XIII.

Embættis-verd ok Egta-stand
at eins var Haunum kaɫat
eɫ þu fátæka Faudrland
flest er þer Nota baɫat.
Oh! ef þu hallded hefder þvi
Haunum voliga taptir i,
Haɫ mundi þig hafa Maɫat.

XIV.

Gilbóa Fiaullum formælt var
fordum af Davids Muɫe
þegar hnigu þar Hetiurnar

sem hermt er i Ritninguнe
Sál ok Jónathan Sonr hanns
Sverdum under Philistæans
hvör audrum heitast uнe.

*XV.*

Þu Breiþefiaurdr þessa Fróns
þvi skylda ek þik blessa
þu varst Medal hins mikla Tións
maurg Tár kaн út at pressa
eþa var svo þin Ofund haurd
uнter ei vorre Fóstr-Jaurd
vid EGGERT upp sik hressa.

*XVI*

Bid ek þu fáir alldrei Afl
Aulldu-Faurum at tína
ellegar nockurn Olgu Skafl
þvi efra Fólke at sýna
Fiskendr á þig fláe mest
Fuglar þig allra plocke best
uns Laund ok Leger dvína.

XVII.

Ok ef þu saltar sólgit Lík
ok sender ei Lands á Vege
þá skal sú verda Raunen rík
Rettar á hærsta Dege
þu fær at láta Fúlgu þá
ok framselia med Rentu, Já!
meir enn ek skinia mege.

XVIII.

Sancte Johannes sá þat best,
Siórinn uppgefa mætte
þá sem hann hafde hondlad vest
ok hindrad i Andar-Drætte,
Svo kemr Lífs vor Lista-Mann
leystr af þínum Fánga-Rann
med háveglegum Hætte.

XIX.

Þorkell á Fyrde Breiþa bar
Beinen i forna Daga
einn Hofdings Madr víst hann var
sem

sem vottar gaumul Saga.
Mañgiarne Ogr yfir þig,
alldrei bid ek þat hende mig
á Siglu Dýri at draga.

XX.

Kristi Villdar- ok Konungs-Meñ
qved ek á voru Lande
ok EGGERTS Vine alla señ
Oskum þar med fylgande
hverke Vedr ne Vatna Flód
Voda Tilfaull af Jaurd ne Slód
Ydr ne Ydar grande.



# Eggerts Ódur

Mætti þesse Liódmæle heita; Enn þad hefur hier ecke Stad, sem Skælded kvad i *Hallfreds* Vandræda-Skálds Rimum:
**Her skal kveda skáld uñ skáld.**
*Hallfredur* hafde ecke lært i hærsum Skola; Og hvør vill þar fyrer samannbera

 hanns

hanns Vijsur vid EGGERTS Kvedlinga? Eins lijted eru mijn Vers samanberande vid *Hallfreds*-Rimna Skálld, og eg innbyrla mier ecke ad vera Skalld, helldur Versmakara. Stundum hiálpa eg mier vid so grannar Kenninga-Nefnur, sem varla koma vid EDDU Dragsmidin. Odrumsinnum brasa saman af nockru Fylle-Kalke, til ad komaz wt med mitt Metrum þo þad giore eckert til Efnesins. Samt eru þesse Vers giord fyrer Tilmæle Land-Physici Herr *Biarna Paulssonar*, og til ad honum skyl de ei mislijka vid mig. Lærder Menn agta ei fyrer ad criticera þang, eñ mijner Lijkar vilia mæskie steita sig, a nockrum Orda-Tiltokum, so sem:

1.) Eggen herd: Þetta skal vera allusio eda Leikur, giordur til EGGERTS Nafns, hvort þo eg minnest ei sied hafa i gomlum Nordmanna Sogum, er samt vel ad finna i Þydskum Skrifum, so sem: *Gerhard, Gert, Eggerhard, Eginh. etc.* Somuleides i nockrum dictudum Æfintyrum *Egghard, Eckhard, etc.* fyrer ymislega Twngu Brwkun, og kañ ecke añad ad þyda, enn hardann Geir edur herdta Egg, og finnur sijnar Ástædur i vorre EDDU.

2.]

2.) Fyrer Appollinis Vebanda-Menn vil eg skiled hafa alla vijsa Menn og þa lærdu sem vijsir eru.

3.) Gudþræde er, sw Gloosa, sem hinn lærde, *Sira Eyolfur* a Wöllum hefur gefid yfir Theologiam

4.) Gamlar og nyrre Túngur. Fyrer þær Gomlu meinast, Hebræska, Griska, Latina og sw forna Danska Twnga, þo nockur finnist nu betur grundadur i einhvorre af þessum, þa skedur þeim hier vid eingenn Orettur; Hinar nyrre Twngur eru, Italienska, Franska, Engelska, Þydska, Danska og Svenska, etc. Sumar þessara vijse Hann ad lesa og skilia, sumar tala og skrifa, um þa Schlavonisku kann, eg ecke ad segia.

5.) Skodunar-Speke oc Verks skal merkia Philosophiam Theoreticam og Practicam.

6.) Túngla Utsprúngr ɔ: Astronomiam.

7.) Alldafars-Rader vil eg þyde: Series Historiar. vid. Pro-œmium *Landn.* i Alldafars Bók þeirre er hinn H. *Beda* Pr.

8.) Alldín-gagn ɔ: ad sa Alldinum og planta þau.

9.) Bæar-magn Oeconomia edr Hwss-forstand.

10.) Of sneMa fór HaN Ungr, a ecke eigenlega ad skiliast so sem Hann hefde dæed

 of-

offnema, edur of-wngur, Þvi hvorke var Madurenn miog wngur, og ei helldur voga eg ad kalla Þad offneint sem skedur epter hinne Oransakanlegu Forsioon; Helldur er Meiningen, ad Hann yfirfoor snemma wngur, œdurtaldar Menter og Kunœttur.

11.) Fólgin Bein ɔ: Jardar-Steina, Mœlma, Mineralia.

12.) Allra best voRa MaRJa. hier verdur lis sub Judice hvort nockur hafi betur kveded enn Hann. Vijst kvad *Thorlakur Gudbrandsson* vel, enn Þo held eg fyrer Geip ad eingenn munde fœdaz hans Jafninge in forô Pöetico so sem enn getur fœdst annad Skœld *EGGERTS* Lijke, Þott ei vaxe œ hvoriu Tre.

13.) Umm sœla Kóng Fridrich ɔ: [a] Fridrichs Varda. [b] Einvallds Od [c] Fridrichs Dràpu. Hvenœr kvad *Thorlákur* jafnvigtugt Kvœde?



Ur

Ur

# Lioода Annal

Sál. Profasts

*Sira*

THORLAKS THORARENSSONAR,

yfir Arid 1768.

Hrygdar Beine hærst uppbrœ,
Heliar Meinid Vestur fræ,
Bloodstijng hardann bydur sinn,
Breidafiardar Skiptapinn.

Alinn Prijs œ Aulldu Beck,
ungur Vice-Løgmann geck,
*EGGERT* frijde *OLAFSSON*.
Islands Prijde, Lyst og Von.

Bwferlin af Bardaströnd,
bioo med sinne FRU vid Hond,
Als um̃ Hokul œtt-mennur,
under Jøkul toolf Vikur.

Ogna Vindur œfte Sioo,
Ægis Hind af Stefnu droo,
Spektar frijdann spennte i Haf,
spyrst ei sijdann Ferd Hanns af.

Lijfs atgerfis Laurvidur,
Land umhverfis Nafn=frægur;
mestann seisde Sooma sinn,
Sorgum hreisd er Minninginn.

Heims=Spekingur Hann var einn,
Hugvits slijngur Mælsku beinn,
alla Vega Vitsku sniall,
vigtuglega samde Spiall.

Rækte Grunn hins forna frialls,
Fiolda kunne Twngumaals,
gagn=vitur i Gudfrædum,
Gullvirdur ad Mannkostum.

Trwr, einlægur, Gædsku giarn,
gegn og hægur rett sem Barn.
Kurt hæ=vasinn Kiærleik mest,
Kyn sitt hafinn rækte best.

Menter Hanns og Hiartans Art,
hier var Landsins biarta Skart;
Lisi Hroodur Lista=manns,
lijkt sem Groodur Amaranz. = = =



Þegar
Sal.
# Eggert Olafs Son,
hier erfidande
uppá
## ISL. HISTOR. NAT.
Sviptur sinu
SALARIO
Sigldé hiedañ, Aред 1764. og biooſt varſ-
la vid Islands aptur ad vitia,
qvad
Hr. Landfogete
## SKULE MAGNUSSON
i Brefi ſijnu til Hanns þad Sumar:

Fardu vel af Fødur-Jordu,
Fardu vel, þo audt ſie Skardid:
Fardu vel med Frægdar Orde,
Fardu vel i Hilmis Garda.

*Sira*

SIRA
# GUNNAR PAULSSON
J Brefi sinu til Hanns hier innannlands um Sumared i Flyti:

Far nu vel Lærdra Laukr,
og Landsins Soomi!
Duge Þinn Herjans Haukr,
ad hverjum Doomi.
Þinn Likams Kraft,
læte Gud ecke þverra:
Vel-lidan øll,
veitest so Ydur holl
af hædstum Herra.

Epter *E G G E R T* hafa hier at auke kveded, Profastr Sr. *Gudlaugur Sveinsson* i Jslendsku; Profastr Sr. *Jon Ormsson*, Prestar Sr. *Einar Halldorsson* og Sr. *Wernhard Gudmundsson*, aller i Latinu, sem hvørge er nu vid Hendena.



Einn

# Vidurkenningar-
og
# Bænar-Psalmur

## Til Guds, út af Spilling Náttúrunnar, og um christelegt Liferne.

Kvedenn af

EGGERT OLAFSSYNE

Vored 1768.

Utgefinn epter Hanns Eigen Handar Rite.

Ton, A þig alleina Jesu Christ.

Eg vesall Madr eckert finn i Náttwrunnar Gædum sem þyde og stille Þoanka minn; Þess-hcattar Speke-Frædum, eg sleppe fws, Þvi Edle spillt Arf-Syndar hefur fyre mer villt: Onytt er Vit og Orka mijn; Af þvi leita jeg þijn, Gud, sem i Trwar Gædum skijn!

Gud eiñ og þreñr giørla veit, Ged mitt og Lijfid avma; Hvorsu jeg fyrr hefe farid a Leit fcanytra Speke-Drauma. Vid Lista-naam, a Lucku-stig, liets eg fullkomna sicalfañ mig, Sida-Lærdoom og sieleg Verk, sem audrum þotty merk; Sialfs-Elskan vid þad vard offsterk.

Goodmeunsku þaa sem Vana=vit virdte sid=laatra Manna, mer hieldt eg nægia, og Menta=glit; Meinte eg ad Trwin sanna, Innbyrling være blind og maad, sem bar eg tijdt um Herr=ans Raad; Eins þaa Samvitsku settuz ad Synd=er i leyndum Stad; Jdran Trwada þenckte eg þad.

Enn Drottenn minn! þijn Elska bar, Um=sioon fyre Saalu minne, yfergefenn þvi alldrei var, wt af i fraaleitt sinne. Hefder þu alla veitt mer Vild, Veralldar Lucku, Makt og Snilld; Være jeg ordenn vitlavst Dyr; Vitska þijn um=byr; Med Hegning Mannsins Heimsku lyr.

Raad er aullum sem rækia nu Raad sitt og Heimsins Speke, ad snwaz til Guds med sañre Trw; Siaalfbyrgingskapiñ reke; Heims=spekin annars Heimska toom hiaa þeim verdur og Idia froom, ad Synd og vondre Vidur=styggd; Verkar ein med Hyggd, Rettkristen Trw þaa rettu Dyggd.

Trwfeste þijna Fader kær! finn eg i mijnu Hiarta! Saal mijn alldrei fullþackad fær, fyre þad Lijfsid biarta, þijns Naadar=Anda, so jeg sie, Synda=Kaam mitt og Naanglæte: Jaa, hvoria Gautu eg hedan af skal halda um Eymda=dal; ad ville mig ecke Veralldar=Skjal.

Ord þitt minn Gud! þad er so dyrt aa þess=um Villu=Tijdum; Þvi aan Manngreinar Al=lits skyrt, aullum syner þad Lydum, þañ eina

Lijfsins þravnga Veg, þo finniz Holde Reisan treg, og Heimurinn ætle i Hægdum ꝏ, Heilagra Land ad nꝏ; Þinn Ande liet mig annad siꝏ!

Lavsnare goodr! eg leita nu, Lijknar og Gædsku þinnar! þu veitst þꝏ ofur-veiku Trw, og Vanefne Sꝏlar minnar! ad Hold og Blood, þad herder sig, þꝏ hugsa jeg til, ad nꝏlgaz þig. Diøfullinn giørir marga Mynd mer ad Hneigsle og Synd; Uppsprettu vellur eitrud Lind.

Af þvi fysiz eg Frelsare minn! ad framaz i þijnum Skoola. Enn eg em davfur og Dymvidrin draga fyre Birtu Soolar: Alhugaleysid olle þvi, og Vondskan sem eg flækiz i: Vantrwar Freistne þraatt Oþyd, þwngt giørir mer Strijd; Hiꝏlpar þinnar eg Herra bijd!

Faustur og Aflꝏt fæ eg ei, framqvæmt, svo skipiz epter: O-sigrad Holdid andsar nei; Andans Diørfung þad hepter; nema þu gefer nægre Styrk; ny-læknud Trwar-Sioonin myrk, feste nu ꝏ þer Avgun rett; ad Sꝏlin verde mett! Holdid þꝏ vinn og Heiminn lett.

Siꝏlfs-Þootta, Ment og syndugt Ged, savrugann Verka Blooma, allann Verdleika lijka med, lioosreykugann *] Hiegooma: Þann

*) Hiegome er eigenlega þad svarta, veika og letta Hióm edr Ohreinende, sem finnz uppyfer Lióse i Vetrar-Húsum, og er eckert annat i siálfu ser, enn Vefr þeirra svørtu Kóngul-Lóa, hvøriar alment kallaz Fiskekallar og af sumum Dorgdinglar. Her af er þad komed i vorre Túngu,

ad

Konguŀlooar vesta Vef, Vorn og Assakan, fangid gef, og fleyge þvi undir Fætur mer, til Foota kriwpande þier, Herra JESU, sem Hiartad sier!

Sialfr veitstu þad Son Guds best, sie jeg og vidur-kenne, daglega Hrøsun mijna, mest mer er þo Bøl ad henne! Giarnan vildeg hinn gamla Mann, geta sigrad! og bundid hann: Fiandans og Heimsins fordaz Taal, frelsad mijna Saal; Haldande jafnt þijn heilaug Maal!

Overdugr eg Kriste kem, Krosse þijnum ad hneigia! Unntu mer þeirrar Æru, sem, eg kys, og vil mig beygia, liwsur under þitt Okid sætt! aa mer verde þijn Huggun rætt! ad sie þad mer bæde sætt og liett; svo jeg beriez rett, og faae þad Hnoss, sem hefurdu sett!

Naad þijns Anda mer ætijd liaa, o! Gud og Trwna hreina! þu ert minn Gud! og avktu þaa Abl minna veiku Beina! Verdskulldan mijn er Vijtis-rijrd; Verdskulldan þijn er Himna-Dyrd, afrekud mer til Arfskiptis! Ei laat mig fara aa Mis, Herra Jesu, þijns Hiaalprædis!

ad hvør fáfengelegr Hlútr og Elugis-virde kallaz Hiegóme, og á þad ei sist vid i and-legum Efnum, þvi so sem nefndr Hiegóme, er ei einasta lettare enn Fis og einskisvirde, helldr og giører allt óhreint og svart sem hañ kemr vid, deyfer Siónina og blindar Menn, ef hann kemr inn i Avgun; So giører og Veralldarinnar Hiegome allt hid sama og enn nu verra i andleganu Máta.

